# Sameiningin.

*Mánaðarrit til stuðnings kirkju og kristindómi Íslendinga.*
*gefið út af hinu ev. lút. kirkjufélagi Ísl. í Vestrheimi.*

RITSTJÓRI *JÓN BJARNASON.*

18. ÁRG. WINNIPEG, JÚNÍ 1903. NR. 4.

## Hvítasunnu-sálmr

eftir séra Steindór Briem.

(Lag: Í dag er glatt í döprum hjörtum.)

1. Í dag vér fögnum góðum gesti,
sem guðleg lotning ber.
Hann veglegt flytr veganesti,
vér vitum, hvað það er;
það elska' er, kraftr, frelsi, friðr;
hann flytr þetta hingað til vor niðr;
oss gáfur þessar gefr hann,
vill gleðja með þeim sérhvern mann.

2. Já, nú er gleði' og líf í landi,
um loftið angan blíð;
því hingað kemr helgr andi
að hressa dapran lýð.
Það heyrist eins og hœgr þytr,
það hverfr ótti, kvíði' og sorgin bitr;
það leggr einhvern unaðs-blæ
um alla jörð, í sérhvern bœ.

3. Guðs andi vekr allt, er lifir,
hann eyðir klakahjúp;
og enn hann sífellt svífr yfir
öll synda-myrkra djúp.
Í náttúrunni' hann vorið vekr,
úr vorum hjörtum kulda' og óvild hrekr.
Í vorum sálum vorloft hlýtt
hann vekr nú svo milt og blítt.

4. Í blænum, sem um loftið líðr
og leikr milt um kinn,
er andi guðs svo unaðs-blíðr
með allan kærleik sinn.
Hann þíðir, vermir, mildar, mýkir
og meinum eyðir, þar sem sorgin ríkir.
Hann færir hingað frið á jörð;
ó, færum honum þakkargjörð.

5. Ó, lof sé þér, þú líf og andi,
sem lífgar hjörtu dauð
og færir hingað lífs af landi
oss líf og himnabrauð.
Ó, hallelúja, hósíanna!
Það himnabrauð, það sáluhjálpar-,,manna"
er drottins orð um elsku' og líkn,
það orð, er segir: Þú ert sýkn.

---

**Tuttugasti og þriðji sálmr Davíðs.**
(Hirðissálmrinn.)

---

*Drottinn er minn hirðir; mig mun ekkert bresta. Í grænu haglendi lætr hann mig hvílast; að hægt rennanda vatni leiðir hann mig. Hann hressir mína sál; hann leiðir mig á réttan veg fyrir síns nafns sakir. Þó eg ætti að ganga um dauðans skugga dal, skyldi eg samt enga ógæfu hræðast, því þú ert með mér; þín hrísla og stafr hugga mig. Þú tilreiðir mér matborð fyrir minna óvina augsýn; þú smyrð mitt höfuð með viðsmjöri; út af mínum bikar rennr. Sannarlega fylgja mér þín góðgirni og miskunn alla daga míns lífs, og æfinlega skal eg búa í drottins húsi.*

---

Um engan af Davíðs sálmum þykir að líkindum kristnu fólki almennt eins vænt og þennan, og enginn annar er því vissulega eins vel kunnr. Allt, sem orðið getr til þess að varpa aukinni ljósbirtu yfir þann dýrmæta, guðinnblásna skáldskap, ætti því að verða vel þegið.

Hér kemr grein um þennan Davíðs sálm, sem nýlega birtist í aðal-kirkjublaði General Council-manna, ,,The Luth-

eran", er út er gefið í Philadelphia. Áðr hafði hún birzt nokkuð lengri í tveim öðrum kirkjublöðum. En höfundr greinarinnar er William Allen Knight, sem hefir skýringarnar á sálminum eftir Sýrlendingi einum kristnum, er hann segir verið hafi gestr sinn.

Vanalega hefir það verið skilið svo í kristinni kirkju, að sálmr sá, sem hér er um að rœða, byrji með líkingarmáli, sem miðað er við austrlenzkt hjarðmannalíf, en að þegar líðr á sálminn — alt frá upphafi 5. versins —, þá breytist líkingarmálið, þannig, að þá sé farið að hugsa um ríkulegt borðhald innanhúss — veizlusal — eins og í dœmisögu frelsarans um hina miklu kvöldmáltíð. En það, segir hinn sýrlenzki maðr, raskar samrœmi líkingarmálsins, skemmir hugsan höfundarins og óprýðir sálminn. Líkingarmálið í sálminum öllum, frá upphafi til enda, er — eftir því, sem sá maðr fullyrti — miðað við hjarðmannalífið. Og þegar vér hugsum til Davíðs konungs, sem í œsku var smaladrengr, hans, sem ávallt meðal Gyðinga og í kristinni kirkju hefir verið talinn höfundr sálms þessa, þá er sú skoðan í mesta máta sennileg.

„Sálmrinn allr er einfaldr hirðissálmr" — segir Sýrlendingrinn. „Menn gæti að, hvernig þar frá fyrsta orði til síðasta er lýst hirðis-starfseminni og hjarðlífinu lið fyrir lið.

„'Drottinn er minn hirðir; mig mun ekkert bresta'. Með þessum orðum hefr skáldið upp söngrödd sína. Á þennan streng er þar slegin fyrsta nótan í sálminum og henni síðan haldið stöðugt þangað til hin angrblíða rödd deyr út um leið og söngrinn endar. Allt, sem á eftir fer, kemr með sömu hugsanina í margbreytilegum geislabrotum.

„'Í grœnu haglendi lætr hann mig hvílast': — nœring, hvíld. 'Að hœgt rennanda vatni leiðir hann mig': — hressing. Þér hugsið hér um lœki, sem líða áfram með veikum straumi; en með því móti fáið þér aðra hugmynd um hvíldina en þá, er vakað hefir fyrir sálmaskáldinu. Það er lítið um ár og lœki í hjarðmanna-héruðunum eystra, og hjarðmennirnir reiða sig ekki á þau vatnsból. *Hœgt rennanda vatn* merkir á hjarðmannamáli *brunna* og *vatnsþrór;* og þangað leiða hirðarnir sauðina, ekki til þess að veita þeim hvíld, heldr ti

þess að ausa þar upp vatni handa þeim og slökkva þorsta þeirra.

,,Hvert orðatiltœki, sem kemr fyrir í líkingarmáli sálmsins hefir sérstaka merking og bœtir við nokkru nýju, sem er dýrmætara en svo, að það megi missast. 'Hann hressir mína sál'. *Sál* merkir í hinum hebresku ritningum *lífið* eða það, sem einstaklingrinn er í innsta og dýpsta eðli sínu. Það eru akrar, matjurtareitir og víngarðar í hjarðmannalandinu, sem eru einstakra manna eign. Og ef sauðirnir reika inn í eitthvert slíkt gerði og nást þar, þá hefir sá, er þeir að undanförnu hafa heyrt til, fyrirgjört eignarrétti sínum til þeirra gerðiseigandanum til handa. Frumorðið hebreska, sem (í íslenzku biblíunni) er þýtt (mjög ónákvæmt) með orðinu *hressir*, merkir hér í sálminum það, að hirðirinn bjargar sauðunum, þegar þeir hafa villzt á slíka annarlega staði: 'Hann leiðir mig burt og bjargar mér (lífi mínu) frá hinum óleyfilegu og hættulegu stöðum'.

,,'Hann leiðir mig á réttan veg fyrir síns nafns sakir'. Oft hefi eg í œsku reikað víðsvegar um hjarðmannalandið og veitt því grandgæfilega eftirtekt, hve torvelt það er að velja sauðunum réttan veg. Ein braut liggr fram á þverhníptan hamar; annar stígr liggr þangað sem sauðirnir hljóta að villast svo, að þeir geta ekki ratað til baka. Og ávallt fór hirðirinn á undan þeim til þess að *leiða* þá á réttan veg, hugsandi um það að halda í heiðri hirðisnafninu og finnandi til þess, hve mikið er varið í það, að vera góðr hirðir.

,,Sumar brautir, sem eru réttar fjárgötur, liggja þó engu að síðr um staði, þar sem banvænum hættum er að mœta. Til þessa atriðis í kjörum hjarðlífsins lítr sálmaskáldið, er hann segir: 'Þó eg ætti að ganga um dauðans skugga dal'. Það að einkenna dalinn með þessu nafni á svo vel við land vort sem hugsazt getr. Eg man eftir einum slíkum dal nálægt heimili mínu, sem kallaðr var Ræningjadalrinn. Og annar var nefndr Hrafnagjá. Þér sjáið, að nafnið 'dauðans skugga dalr' er í samhljóðan við það, er frá alda öðli hefir tíðkazt í mínu landi. Og svo er orðatiltœkið: 'Þín hrísla og stafr hugga mig'; því að hirðarnir bera vopn til varnar, en

líka vopn til þess að stjórna hjörðinni með. Eg vildi, að þér gætuð séð, hvernig sauðirnir þyrpast utan um smalann og leggja sig fast upp að honum; þá myndi yðr vel skiljast ummælið : (þau) 'hugga mig'. Kall hirðisins og niðrinn af fótagangi sauðanna, er þeir skunda til hans, — það eru hljóð, sem vel eru valin úr þessum hávaðasama heimi til þess að jarteikna huggun þá, er guð veitir sálum þeim, sem sinna rödd hans. Og þessar raddir hefir mátt heyra í mínu landi í síðustu tíð alveg eins og forðum, þá er hirðissálmrinn var í letr fœrðr.

,,Þegar nú hér er komið í sálminum, þá hverfið þér burt frá líkingarmálinu um hirðisstarfið og setjið inn í sálminn hugmyndina um veizlu ; en með því móti missið þér af hinum fagra stíganda í hugsaninni um umhyggju hirðisins fyrir hjörðinni. 'Þú tilreiðir mér matborð fyrir minna óvina augsýn'. Það er fráleitt í mesta máta að missa þarna sjónar á því atriði hirðisstarfsins, sem mest hyggindi þurfa til og mesta karlmennsku, og ímynda sér, að hér sé allt í einu í sálminum farið að hugsa um veitingar innanhúss. Ekkert œðra hlutverk liggr fyrir hjarðmanni í mínu landi en það að leggja aftr og aftr á stað að heiman til þess að kynna sér það eða það svæði grandgæfilega, rannsaka haglendið og grastegundirnar, sem þar vaxa, og á þann hátt að leita upp þá staði, þar sem sauðirnir hans geta haft góða beit og verið óhultir. Í slíkum rannsóknarferðum reynir oft hvað mest á vitrleik hans og vaskleik. Innan um grasið eru margar eitrjurtir, og þær verðr smalinn að finna og ná þeim burt. Frændi minn nokkur missti einu sinni þrjú hundruð sauða sökum gáleysis í þessu sambandi.

,,Líka eru þar jarðsmugur, þar sem höggormar hafast við; og höggormarnir bíta nasir sauðanna, ef þeir eru ekki flœmdir burt. Hjarðmaðrinn verðr í því skyni að brenna svínsfeiti við smugu-opin. Allt í kringum beitilandið, sem hirðirinn verðr að hreinsa á þennan hátt, áðr en hann megi hleypa hjörðinni þangað, eru sjakalar, úlfar, hýenur í hellum og gjótum fjallshlíðanna, og jafnvel tígrar. Og um fram allt þarf hirðirinn á öllum vitsmunum sínum og hugrekki sínu að

halda, þegar hann er að byrgja urðarbœli villudýra þessara eða leggja þau að velli með hinum blaðlanga knífi sínum. Auðheyrt er á hjarðmönnum, að ekki finnst þeim sjálfum eins mikið um neitt í framkomu sinni sauðanna vegna eins og um þessi sérstöku þrekvirki. Og nú ætti öllum að skiljast, við hvað er átt með hinum einkennilegu ummælum í sálminum: ‘Þú tilreiðir mér matborð fyrir minna óvina augsýn.’

,,‘Þú smyrð mitt höfuð með viðsmjöri; út af mínum bikar rennr.’ Hér byrjar það atriði líkingarmálsins, sem snertir starf hirðisins að deginum enduðum. Fram að þessu hefir í sálminum verið sungið um störf hirðisins öll í réttri röð meðan dagrinn er að líða, allar þarfir sauðanna á þeim tíma, allt, sem af hálfu hirðisins er gjört til að bœta úr þeim. Nú sýnir sálmrinn það, sem seinast gjörist í hjarðlífinu eftir að komið er kvöld. Hirðirinn stendr við dyrnar á fjárbyrginu (sauðahúsinu), og lætr sauðina, eftir að hann hefir snúið sér við og að þeim, einn og einn ganga undir staf sinn. Hann er dyrnar, eins og Kristr segir um sjálfan sig. Með stafnum heldr hann þeim aftr meðan hann rannsakar hvern þeirra út af fyrir sig áðr en hann sleppir þeim inn í byrgið. Hann er með horn fullt af viðsmjöri, og enn fremr með tjöru úr sedrusviði. Ef einhverjir af sauðunum hafa marið kné sín á eggjagrjótinu eða hruflað síður sínar á þyrnunum, þá smyr hann hina særðu staði með þessum áburði. Einstaka sauðr er þreyttr og uppgefinn, þótt ekki hafi hann orðið fyrir neinum meiðslum. Þá baðar hirðirinn andlit hans og höfuð með hinu hressanda viðsmjöri. Og hann tekr stóran bolla með tveimr handarhöldum og dýfir honum í vatnsker, sem í því skyni er þar við höndina, og setr hann barmafullan fyrir sauðinn til þess að hann geti þar svalað sér. Ekkert er fegra í öllum sálminum en þetta. Guð ber umhyggju ekki að eins fyrir þeim, sem særðir eru, heldr einnig fyrir þeim, sem þreyttir eru og uppgefnir. ‘Þú smyrð mitt höfuð með viðsmjöri; út af mínum bikar rennr.’

,,Og þegar svo dagrinn er algjörlega liðinn og sauðirnir hafa komið sér þægilega fyrir í fjárborginni, hvílík ánœgja og hvíld ríkir þar þá undir hinum alstirnda nætrhimni. Þá verðr

alráðandi hugsanin um friðinn mesta og huggunina óviðjafnanlegu: 'Sannarlega fylgja mér þín góðgirni og miskunn alla daga míns lífs' eins og nú hefir reynzt við hvert fótmál á þessum degi, sem síðast er liðinn hjá.

,,Söngrinn deyr út með því að hjartað, sem guð hefir vakað yfir og hjúkrað, andar frá sér þessu þakklætis-áheiti áðr en það, sem komið hefir fyrir á hinum liðna degi, gleymist í svefninum: 'Og æfinlega skal eg (ekki ,,mun eg'', sem ekki er rétt þýðing, heldr: *skal eg*) búa í drottins húsi.' Söngrinn er á enda og sauðirnir hvílast óhultir í fjárborg hins góða hirðis.''

## Vandamál lútersku kirkjunnar í Ameríku á næstu hálfri öld og hvernig hún mun leysa úr þeim.

**Ritgjörð í „Lutheran Church Review“ eftir dr. Carl Swenson.**
**Lauslega þýdd af séra Birni B. Jónssyni.**

[Höfundr greinar þessarar er sœnskr maðr og tilheyrir Ágústana-sýnódunni. Hann er forstöðumaðr skóla þess, er *Bethany College* nefnist, í Lindsburg, Kansas. Hann hefir verið forseti *General Councils*. Óhætt má telja hann með helztu leiðtogum lútersku kirkjunnar hér í landi. Af því greinin fjallar um ýms þau mál, sem vér Íslendingar þurfum að fást við nú og í framtíðinni, þótti mér vert að birta hana kirkjulýð vorum. Vera má, að menn sé ekki höfundinum samdóma í sumum atriðum, en eigi að síðr ætti það að greiða götu vora að vitrlegum skoðunum, að heyra, hvað góðir menn með meiri reynslu en vér hafa að segja um málin. — B. B. J.]

Lúterska kirkjan er tiltölulega lítið þekkt; hún þekkir sig jafnvel ekki sjálf. Venjulega þekkir maðr dálítið til síns eigin safnaðar og kirkjufélags, en þar endar þekking manns. Að lúterska kirkjan sé hið stœrsta félag Mótmælenda, að hún ein sé stœrri en fimm næst-stœrstu kirkjudeildir Mótmælenda samtals er víst alveg ókunnugt fjölda af fólki voru. Bera má saman sjötíu milíónir Lúters-trúarmanna í heiminum við tuttugu og eina milíón manna í Biskupakirkjunni, seytján milíónir Meþodista, ellefu milíónir Baptista, níu milíónir Presbyteríana, fjórar milíónir Kongregazíónalista og átta milíónir ónafngreindra smáflokka Mótmælenda; og sér maðr þá, að alls eru 140 milíónir Mótmælenda í heiminum, og helmingr þeirra telst til lútersku kirkjunnar.

En fjöldi vor er líka veikleiki vor. Vér erum frá svo mörgum þjóðum og löndum komnir; vér höfum myndazt á mismunanda hátt fyrir mismunandi áhrif hnattstöðu, þjóðlífs og uppeldis. Vér lúterskir menn höfum fjölgað í þessu landi frá því að vér árið 1800 vorum 23,000 þar til vér nú árið 1903 erum 1,750,000. (Hér eru að eins taldir fermdir meðlimir lúterskra safnaða.) En þessi mikla samsteypa lúterskra manna talar á ellefu tungum, eða meir.

Á næstu fimmtíu árum mun lúterska kirkjan læra að tala ensku, ekki að eins að nokkru leyti eins og nú er, heldr almennt og algjörlega. Þar fyrir segi eg ekki, að ekkert annað mál verði talað en enskan í lútersku kirkjunni í Vestrheimi; heldr að eins þetta: Innan fimmtíu ára verðr að líkindum enskan töluð undantekningarlaust á öllum kirkjuþingum sem aðal-mál, og enskan verðr notuð við guðsþjónustur í níutíu af hverjum hundrað kirkjum vorum.

Hvernig kemst þessi breyting á?

Hún er nú þegar að komast á.

Eg tek dœmi.

Ágústana-sýnódan sœnska er meir en þriðjungr alls *General Councils*. Vér erum upprunalega og höfum til fárra ára verið sœnskir, en vér höfum komið til þessa lands til að ílengjast hér. Vér hugsum oss ekki að endrreisa Svíþjóð hér á amerískri jörð, heldr allt annað.

Hvað hugsum vér oss að verða?

Vér ætlum að verða verulegr og samgróinn partr hins ameríska þjóðlífs, og vera sem partr hinnar miklu og dýrðlegu lútersku kirkju í Ameríku, sem smámsaman myndast hér úr mörgum og mismunandi efnum.

Oss er annt um, að bróðurlegt samband sé milli vor og hinnar lútersku kirkju í Svíþjóð, og á yfirstandandi tíð er það samband bróðurlegra en nokkru sinni áðr. En það segi eg með áherzlu, að vér munum ekki líða nokkrum tilfinningum, nokkurri vináttu, nokkrum sögulegum endrminningum að aftra oss frá því, að uppbyggja hér sannarlega ameríska lúterska kirkju.— —

Það mál, er snertir tungurnar, mun bráðlega sjá um sig

sjálft. Látum það sjá um sig sjálft. Ýtið ekki á eftir; beitið ekki valdi; fylgið að eins með framþróunar-lögmáli því, sem nú ræðr hvervetna hjá hinum þýzku og skandinavisku kirkjuflokkum vorum. Jafnvel Missouri-sýnódan er farin að tala á góðri ensku. Hver gildari rök þarf að fœra að því, að þetta sérstaka mál sjái um sig sjálft.

Þjóðerni og tungumál er ekki alveg hið sama. Lúterskir Þjóðverjar koma frá Lúters eigin ættjörð; og það er ekki nema eðlilegt, að þeim finnist, að sín Lúters-trú sé bezt, og jafnvel hin eina rétta, sem til er. Lúterskir Svíar koma aftr á móti frá ættlandi hins djarfa Gústafs Adolfs, verndara Mótmælenda; og ósjálfrátt finnst þeim, að það sé heilög skylda þeirra að vernda djarfmannlega hina sönnu Lúters-trú, þ. e.: hina sœnsku tegund hennar.

Lúterskir Ameríkumenn láta sig fyrst af öllu varða vegsemd þessa volduga lands. Þeim er ekki láanda, þótt þeim finnist fátt um þau þjóðernislegu sérkenni, sem útlendingarnir láta sig svo miklu varða. Þeir vilja, að Lúters-trú og hin lúterska kirkja sé upphafin yfir landamerki, tungumál og þjóðerni. Stundum láta þeir þetta í ljós á mjög oflátungslegan hátt, með samskonar gorgeir og iðulega kemr fram í hátíðarrœðum þeim, sem haldnar eru á frelsisdegi Bandaríkjanna, fjórða Júlí, og brœðr þeirra, sem af þýzku og skandinavísku bergi eru brotnir, styggjast þá og verða reiðir.

Hvernig mun það allt enda?

Eins og vant er. Allar heimilisdeilur á vel siðuðum og kristnum heimilum enda þannig, að báðir málsaðilar játa yfirsjón sína og fyrirgefa hvor öðrum af hjarta. Eftir lítinn tíma munum vér allir „sættast og kyssast“.

En um hríð munu þýzkir, skandinaviskir og amerískir Lúterstrúar-menn skjóta flugeldum hverir til annarra frá rœðupöllum og prentsmiðjum sínum, en innan stundar mun reyknum létta. Vér mœtumst á miðri leið; vér skiljum ástandið; og svo kemr hin nýja öld bróður-kærleikans fyrir hina kæru lútersku kirkju vora, öld bróður-kærleikans og framfara,—sigr á sigr ofan um allar fylkingarnar.

Hinar lútersku menntastofnanir vorar munu leggja til

sinn skerf, svo þessu marg-þráða takmarki verði náð. Ekkert hefir jafn-mikil áhrif eins og skólalífið í Ameríku á námsmanninn. Það eyðir þröngsýni hans, stœkkar sjóndeildarhring hans, fær honum yfirgripsmeira ætlunarverk; og sé skólinn rétt valinn, gjörir hann nemandann tryggan, íhaldssaman, staðfastan starfsmann sinnar eigin kirkju.

Hinar lútersku menntastofnanir vorar í Ameríku tala ensku, og anda að sér lofti frelsisins og brœðralagsins, sem er grundvöllr þjóðlífsins í Vestrheimi, og þar lifir og ríkir ættjarðarástin í blóma. Hver maðr, sem frá hinum lútersku skólum landsins kemr, gengr með þessa ósk í hjarta sínu: Ein sameinuð lútersk kirkja í öllum Vestrheimi. Guð gefi, að sú ósk nái bráðlega að rætast.

Lúters-trúarmenn hér í landi greinir á um margt, er lýtr að ytra fyrirkomulagi og hegðun. Meðal þeirra eru sumir strangir kirkjusiða- og ,,hákirkju''-menn með prestaskrúða og tíðareglur; aðrir eru oftrúar- og ,,lágkirkju''-menn með sterka tilhneiging í trúarofsa-áttina. Milli þessara öfga eru margar ,,stefnur'' og skoðanir, margskonar mismunandi skilningr á lúterskum kenningum um bæði trú og líferni.

Hvernig fer um allt þetta? Mun ,,hákirkjumaðrinn'' verða að tómum siðamanni? Mun ,,lágkirkjumaðrinn'' snúast í ofstækismann? Guð forði oss frá því!

Er ekki skynsamlegt að ætla, að hið göfugasta, sannasta og bezta í hvorri stefnunni um sig nái saman og gjöri eitt úr báðum?

Lúters-trúarmaðrinn, sem flytr guðsþjónustur sínar eftir fögrum, líkingarfullum, sögulega réttum tíðareglum, — mun hann ekki minnast þess, að þegar allt kemr til alls, er það hinn lífgandi a n d i, sem er hið eina nauðsynlega? Trúin er líf, andleg tilvera sköpuð af guði. Og Lúters-trúarmaðrinn, sem svo mikla áherzlu leggr á auka-guðsþjónustur og ákafa starfsemi, — mun hann ekki með tímanum auðmýkja sig og kannast við, að allr kraftr kemr frá guði einum, og að náðarmeðulin eru verkfœri guðs, sem hann vinnr með hin dásamlegu verk sín meðal mannanna, og að ,,ekki er allt gull, sem glóir'', ekki heldr í starfs-ákafa trúarlífsins hér í Vestrheimi?

Að fimmtíu árum liðnum ætti einkenni Lúters-trúarinnar hér í álfu að vera: óyggjandi evangeliskr rétttrúnaðr, fögr og sögulega rétt guðsþjónustuform, óþreytandi eljusemi og biblíuleg andagift.

Bandalögin (Luther Leagues) eiga að kenna oss að meta þýðing samkvæmislífsins innan kirkjunnar. Þótt bandalögin ekkert annað gjörði en þetta eitt, þá leysti þau þó af hendi þýðingarmikið verk. Náinn kunningskapr á að vera milli allra meðlima safnaðarins. Og ekki má vera til nein stéttagreining innan safnaðarins. Milíóna-eigandinn og daglaunamaðrinn eiga að búa þar saman sem brœðr á heimili föður síns.

Þennan sannleika á hin lúterska hjörð kirkju vorrar að hugleiða og framkvæma á næstu fimmtíu árum. Ef henni auðnast það, þá vinnr hún mannfélaginu hið mesta gagn.

Lúterska kirkjan á að halda fast við trú feðranna, en forðast trúarlega nýgjörvinga vorra tíma.

Eg er sannfœrðr um, að sumar ályktanir vorar, t.a.m. ályktanir Ágústana-sýnódunnar um leynifélög, hafa verið óvitrlegar og óheppilegar. Afstaða vor við meðlimi leynifélaga utan kirkju og innan ætti að vera alveg eins og við aðra menn. Að semja sérstök lög og reglugjörðir þeim viðvíkjandi, sem þó samkvæmt hlutarins eðli er ómögulegt að framfylgja eins og stendr á fyrir oss, finnst mér vera bæði óamerískt og ólúterskt og algjörlega óframkvæmilegt.

Með sjálfum mér finnst mér, að allt fyrirkomulag leynilegra og eiðsvarinna félaga geti verið hættulegt, ekki að eins fyrir kirkjuna, heldr líka fyrir þjóðfrelsi vort, þótt ekki þurfi það nauðsynlega að vera. En það hlýtr að vera auðveldara að lækna sjúkdóminn, ef það er sjúkdómr, með sjúklinginn á spítalanum, en ekki úti á götunni. Guðs orð eitt getr upplýst mann. Ef maðr ekki lætr sannfœrast af guðs orði, munu mannlegar fyrirskipanir aldrei geta það, — og öll stefna bæði hjarta vors og höfuðs á að miða að því að frelsa eins marga og unnt er.

Lúterska kirkjan í Ameríku verðr að sníða sig meir eftir hérlendum háttum á næstu fimmtíu árum.

Með þessu á eg ekki við tungumálið, sem talað verðr, heldr við hugsunarhátt og starfs-aðferðir kirkjunnar í heilu lagi. Maðrinn verðr ekki að amerískum manni hvorki fyrir fœðing né menntun, heldr vex maðr smátt og smátt til aldrshæðar hins fullkomna borgara, bæði að því er réttindi og skyldur snertir. Ef þetta er satt, þegar um einstaklinginn er að rœða, þá er það líka satt með tilliti til félaganna, sem einstaklingarnir hafa myndað.

Lúterska kirkjan í Ameríku hefir þrásinnis verið kölluð útlend kirkja. Hún hefir of oft átt það nafn skilið. Vér höfum komið hingað frá þýzkum og skandínaviskum löndum og enn fleiri löndum, og framan af hefir oss fundizt, að vér værum útlendir og gestir á hinni nýju fóstrjörð vorri. Þúsundum saman höfum vér óskað oss heim aftr til ættjarðarinnar. En þetta ástand breytist algjörlega með annarri og þriðju kynslóðinni. Þess vegna spáum vér því, að það hætti með öllu á næstu fimmtíu árum.

Kaþólska kirkjan og Meþodistar láta venjulega lang-mest til sín taka í þjóðlífinu hér í Ameríku.

Hvers vegna ber svo mikið á þeim?

Af því að þeir hafa vakanda auga á því, sem fram fer. Þegar McKinley forseti var myrtr, varð Ireland erkibiskup einna fyrstr til að taka opinberlega til máls út af þeim sorgaratburði og fordœma hinn svívirðilega glœp. Þótt eg sé lúterskr í húð og hár, tók eg engu að síðr með gleði og lotning í hönd hans nokkrum vikum seinna og þakkaði honum fyrir orð hans. Kaþólskir menn og Meþodistar eru allsstaðar nálægir og ávallt til þess búnir að þjóna öðrum og taka þátt í opinberum athöfnum.

Hingað til hafa prestar kirkju vorrar dregið sig of mikið í hlé, hafa sýnt allt of mikla hógværð, hafa staðið langt í burtu og horft þegjandi á framfarir hins ameríska þjóðlífs. En þetta mun breytast og leiðréttast smámsaman. Synirnir munu ganga með dugnaði að því verki, sem feðrnir töldu sér óviðkomanda. Börnin munu ekki líta á sig sem útlendinga og gesti, heldr fullkomna borgara þessa lands og óaðgreinanlegan part heildarinnar.

Og borgarastaða í frjálsu og kristnu ríki hefir í för með sér skyldur og ábyrgð, sem enginn einstaklingr eða flokkr einstaklinga er undanþeginn. Því æðri sem köllun vor í lífinu er, því meiri er ábyrgðin, og því fyrr sem kirkja vor yfir höfuð að tala viðrkennir þennan sannleik, því betra verðr það fyrir oss sjálfa og því meiri áhrifum og valdi náum vér að beita hér í voru kæra landi.

Hin lúterska guðfræði vor er á yfirstandandi tíð í mjög ánægjulegu ásigkomulagi. Guðfræðingar vorir og kennarar eru lærðir menn, en líka auðmjúkir og guðhræddir; þeir hafa í sér starfsfjör, skarpskyggni og karlmennsku Lúters sjálfs. Hin þóttafulla, nærsýna, dauðraga tegund leiðtoga þekkist ekki í prestaskólum vorum. Því eldri sem vér verðum, því dýpri verðr fyrirlitning vor á hinum uppblásnu stórbokkum, sem ranglega eru nefndir rannsóknarmenn (critics). Látum rannsóknarmennina margfaldast að tölu; látum þá verja tíma sínum til rannsókna; en krefjumst þess, að þeir hafi heilbrigða skynsemi og hinn sanna hógværðar-anda, sem ávallt hefir einkennt hina beztu og göfugustu lærdómsmenn.

Hver framtíð bíðr vor?

Guð einn veit það.

Vér erum að verða betr menntaðir en vér höfum verið. Hógværð vor verðr ef til vill ekki samferða bættum kjörum vorum og vaxandi velmegun. Ef til vill verða einhverjir þeirra, sem á eftir koma, ekki andlega sinnaðir og guðhræddir í rannsóknum sínum. Guðlaus guðfræðingr, eða biblíufræðingr án guðs ótta, finnst mér vera líkr villumanni frá Suðrhafseyjum dæmanda um sönglist. Hinar næmu eðlisávísanir, hin sterka sjálfsstjórn, hin glögga sjón á því, sem andlegt er og yfirnáttúrlegt, getr að eins veitzt þeim lærdómsmanni, sem andlegt heimili sitt hefir byggt á Golgata og hefir fyrir yfirkennara sinn hinn heilaga anda föðursins og guðmannsins, frelsara vors.

Ef lúterska kirkjan í Vestrheimi verðr staðföst í trú sinni á hið opinberaða orð guðs og heldr fast við Ágsborgartrúarjátninguna sem áreiðanlega og fullnægjandi útskýring á kenningum nýja testamentisins, —ef kirkja vor viðrkennir

ávallt gildi — ekki búningsins eins, né innihaldsins eins, heldr hvorstveggja sameiginlega, — ef vér leggjum til hliðar lítilfjörleg ágreinings-atriði, en tökum höndum saman um þau þýðingarmiklu mál, sem oss alla varða, þá mun lúterska kirkjan verða árið 1853 eitt hið sterkasta afl, sem til er og þekkist hjá frjálsri og voldugri þjóð, er telr 150 milíónir manna.

## Hönd til himins rétt.

Þýtt hefir séra Steindór Briem.

Á sjúkrahúsi nokkru hafði lítill drengr lengi legið mjög veikr af kirtlaveiki ; var hann allr hlaðinn kaunum og sárum og tók oft mjög mikið út. En honum hafði verið sagt, að hann ætti ástríkan frelsara á himnum; og það var oft, þegar hann þoldi ekki við af sársauka, að hann svo innilega og hjartanlega bað frelsara sinn að koma til sín og flytja sig með sér til paradísar; því að hann hafði heyrt, að þar væri engin veikindi til, engin sorg né mæða.

Einn morgun, þegar hjúkrunarkonan kom inn til hans til að þvo honum, gjöra við sár hans og hagræða honum, gat hún um það við hann, að um nóttina hefði dáið gamall sjúklingr í einu af næstu herbergjunum, en þessi gamli maðr hafði oft verið góðr við drenginn. Augu drengsins flutu í tárum við fregn þessa, og hann sagði: „Æ, þá hefir Jesús komið hingað í nótt. Af hverju ætl' hann hafi ekki tekið mig með sér? Mig langaði þó svo hjartanlega til að fá að fara með honum. Eg er hræddr um, að Jesús taki ekki eftir mér, þó hann gangi hér um húsið, af því að eg er svo lítill. Heldrðu, að það dygði ekki, ef eg rétti höndina upp undan sænginni áðr en eg fer að sofa á kvöldin? Þá sér hann hana víst og man þá eftir, að mig langar svo mikið til að fá að fara með honum, og tekr mig svo með sér."

Hjúkrunarkonan vildi ekki mæla á móti litla drengnum og sagði því, að þetta væri víst reynanda. Að öðru leyti gaf hún þessum orðum hans lítinn gaum.

Þegar hún kom að rúmi drengsins morguninn eftir, lá hann grafkyrr með augun aftr, en litlu mögru höndina sína

hafði hann rétt upp undan sænginni. Hún tók í hana, en höndin var ísköld. Drengrinn var ekki sofandi, eins og hún hugsaði, heldr var hann dauðr. Þegar hann hafði farið að sofa, hafði hann rétt höndina upp undan sænginni, og studdi undir olnbogann með lófanum á hinni hendinni. Þannig hafði hann sofnað, og Jesús hafði tekið eftir honum, munað eftir bœnum hans og tekið hann með sér þangað, sem öll tár þorna.

Þú, sem þetta lest! Þig langar, ef til vill, ekki til að deyja eins og litla drenginn, en vilt lifa mörg ár enn. En ef þú ert trúaðr kristinn maðr, er það þó innilegasta löngun þín, hjartans ósk þín og bœn, að fá á síðan að koma þangað, sem Jesús er, og fá að vera hjá honum eilíflega, þar sem engin synd og ekkert stríð er til, engin sorg né tár, ekki harmr né vein né mœða. Sál og sinni getr þó orðið svo þreytt af allskonar stríði og mœðu, að menn af hjarta langi til að leysast héðan og hvílast í faðmi frelsarans.

Látum oss þá gjöra eins og litli drengrinn. Látum oss í öllu stríði og baráttu lífsins, í synd og sorg rétta höndina — biðjandi hönd — upp til himins, til þess að Jesús geti séð hana og vitað, að oss langar að fá að koma til hans, burt frá þessari jörð, burt frá stríði og baráttu, synd og sorg, og fá að vera hjá honum, og eins og hann, lausir við synd og sorg, í heilagleika, friði og gleði.

Það er sagt frá því í 2. bók Mósesar (17. kap.), er Ísraelslýðr átti í bardaga við Amalekíta, að Móses gekk upp á fjall og rétti upp hönd sína í bœn til guðs. „Þá gjörðist það, að alla þá stund, er Móses hélt upp hendi sinni, þá höfðu Ísraelsmenn betr, en þegar er hann lét síga höndina, þá veitti Amalekítum betr" (11. v.).

Kæri lesari! Í hverju stríði sem þú kant að eiga, þá gleymdu ekki að rétta höndina upp undan sænginni, þegar þú fer að sofa, til þess að minna Jesúm á þig. Því þú ert svo lítill, eins og veiki drengrinn.

## Gjafir til skólasjóðs kirkjufélagsins.

Frá *Winnipeg:* Jón A. Blöndal og Árni Eggertsson, $10 hvor; Andrés Freeman, $5; *Garðar:* Stefán Eyjólfson, $10; Ólafr Ólafsson, Oddr Johnson, Jón Hall, Björn B. Jónasson, Jón Brandsson, Friðbjörn Samson, $5 hver; Aðalmundr Guð-

mundsson, $4; Guttormr Jónasson, $3; J. A. Johnson, Ásm. Bjarnason, H. Thorlacíus, Jóhann J. Sveinsson, Davíð Jónsson og Stefán Arngrímsson, $1 hver; *Mountain:* Sveinn Sölvason, $10; G. Ólafsson, $5; J.G. Johnson, $2; *Edinburg:* B. B. Hanson, K. S. Thórðarson, Gísli Goodman, Aðalsteinn Jónsson, $5 hver; G. J. Erlendsson, $2; Oddr Johnson, $1; *Milton:* Magnús Paulson og Einar J. Snædal, $3 hvor; P. G. Johnson, $5; Jón Jóhannsson, $1; Steingr. Grímsson, 50 ct.; *Glenboro:* Björn Walterson, $30; Friðjón Friðriksson og Skafti Arason, $25 hvor; Árni Sveinsson, $20; Jón Sveinbjörnsson, Sigmar Johnson, Halldór Magnússon, $10 hver; Jónas Helgason, S. Johnson, Guðm. Norðmann, G. Björnsson, S. Árnason, Páll Friðfinnsson, C. B. Johnson, Jón Friðfinnsson, J. A. Walterson, Guðmundr Ruth, Einar Jónsson, O. Friðriksson, $5 hver; Jósafat Jósefsson og B. Björnsson, $3 hvor; Kristján Ólafsson, Chr. Josephson og Sveinn Björgólfsson, $2 hver; Jóh. Jóhannsson, Jón Helgason, Jón Þórðarson, S. Stefánsson og Jakob Helgason, $1 hver; *Brú:* J. Sigurðsson, Jón Landy og B. Jónasson, $10 hver; *Grund:* H. Christopherson, $5; *Hnausum* [safnað af hr. Stefáni Þórarinssyni í viðbót við það, sem áðr er kvittað fyrir]: Bjarni Marteinsson, 75 ct.; Gunnlaugr Martin, Margrét Björnsson og Páll Johnson, 50 ct. hvert; Stefán Oddleifsson, 25. ct.; enn fremi séra Rúnólfr Marteinsson, $2.

---

BŒKR gefnar bókasafni kirkjufélagsins: a) frá Boga J. Eyfjörð í Pembina: Passíusálmar Hallgríms Pétrssonar — Hólum 1780; b) frá Margrétu Guðmundsdóttur í Selkirk: *Diarium Christianum* Hallgríms Pétrssonar—Hólum 1747 — og sbd. ‚Sjö guðrækilegar umþenkingar‘ sama höfundar — Ed. III, Hólum 1747; c) frá Ingibjörgu Bjarnadóttur í Winnpeg: Lærdómsbók (kver Balles)—R.vík 1876.

---

Hr. Ólafr S. Thorgeirsson, 644 William Ave., er féhirðir „Sameiningarinnar“.



„SAMEININGIN“ kemr út mánaðarlega, 12 númer á ári. Sunnudagsskólablaðið „Kennarinn“ fylgir með „Sam.“ í hverjum mánuði. Ritstjóri „Kennarans“ er séra N. Steingrímr Þorláksson, West Selkirk, Man. Árgangsverð beggja blaðanna að eins $1; greiðist fyrirfram.—Skrifstofa „Sam.“: 704 Ross Ave., Winnipeg, Manitoba, Canada.—Útgáfunefnd: JÓN BJARNASON, (ritstj.), FRIÐRIK J. BERGMANN, ÓLAFR S. ÞORGEIRSSON, BJÖRN B. JÓNSSON, N. STEINGRÍMR ÞORLÁKSSON.

Prentsmiðja Lögbergs. — Winnipeg.